# MYNDABÓK

handa

# BÖRNUM.

II.



KAUPMANNAHÖFN.

Prentuð á kostnað E. Jónssonar, hjá Louis Klein.

1853.

Aðaltilgangur kvers þessa er að vekja lestrarlöngun barna með myndunum, skemmta þeim og fræða þau um ýmislegt. Ef hinir fullorðnu segja þeim nokkuð meira um myndirnar en hjer er gjört, þá verður fróðleikurinn því meiri, og undir eins verulegt gagn kversins.

Útgefandinn.

# YFIRLIT EFNISINS.

## 1. Kristjánshöll.

Kristjánshöll er byggð á eyju; umhverfis eyna eru síki, og nokkur hluti af sundi því, er skilur Sjáland frá Amagerey. Á ey þessari voru þegar í fornöld mörg merkileg hús. Hinn nafnfrægi erkibiskup Absalon byggði þar á miðri 12. öld vígi eitt til varnar bænum móti vindverskum víkingum; vígið var kallað Axelshús, og er svo mælt, að sá hluti hallarinnar, sem næstur er ráðgjafasölunum, sje menjar af múrum þeim, er voru kringum vígið. Síðan að Kristófer frá *Bayern* sat að ríkjum hefur þar ávalt verið konungasetur, en opt hefur höllin verið byggð að nýju. Á dögum Kristjáns hins sjötta var svo að segja öll höllin byggð upp með hinni mestu viðhöfn; en allt þetta skraut varð að bráð ógurlegum eldsvoða aðfaranótt hins 27. febrúarmánaðar árið 1794; brann höllin gjörsamlega, en þó stóðu veggirnir eptir, því þeir voru mjög svo rammgjörvir. Gekk nú seint hallarsmíðið að nýju, og leið á löngu, áður en hún væri fullbúin innan.

## 2. *Tycho Brahe.*

*Tycho Brahe* var danskur maður eðliborinn. Hann lagði mikla stund á stjörnuspeki, og skaraði mjög fram úr öllum samtíða mönnum í þeirri list, svo hann varð nafntogaður fyrir. Eptir hann liggja margar mikils verðar athuganir, og notaði hann við þær ýms verkfæri, sem hann hugsaði sjálfur upp, og ljet smíða. *Tycho Brahe* kenndi mörgum stjörnufræði, og var þýzkur maður nokkur, Jóhann Kepler að nafni, frægastur þeirra. En þó að *Tycho Brahe* væri slíkur afbragðsmaður sem hann var, komst hann þó í óvináttu við höfðingja þann, sem mestu rjeð á æskuárum Kristjáns konungs hins fjórða. Stökk hann þá burtu úr Danmörku til Rúðólfs keisara hins annars. Þar dó hann í útlegð.

## 3. Úraníuborg.

*Tycho Brahe* bjó á lítilli ey í Eyrarsundi, er heitir *Hveen*. þar reisti hann stjörnuborg þá, sem hjer er dregin upp, með hjálp Friðriks konungs hins annars, konungs í Danmörku. Hjer bjó hann, og í þessu húsi athugaði hann himintunglin með þeim verkfærum, er hann ljet sjálfur búa til, og eigi vita menn til þess, að hann hafi þekkt sjónpípur, jafnvel þó þær væru þá komnar upp á Hollandi. Nú eru að eins rústir eptir af þessu veglega húsi; skraut þess er liðið undir lok, en heimurinn gleymir því aldrei vegna snillingsins *Tycho Brahe*.

## 4. Könnuberinn.

Þú getur hæglega sjeð það á myndinni, hvers vegna þessi merkilega jurt ber þetta nafn. Upp úr endanum á hverju blaði vex langur þráður, sem vefst í hringa og bugður, efst slær hann sjer út, og verður holur innan, og eins og kanna í lögun; ekki vantar heldur lokið. Á daginn stendur kannan opin, en á næturnar er hún aptur; hún er full með sætan svaladrykk, og segja menn, að nóg sje fyrir einn mann, að tæma 6 eða 7 í einu við þorsta. Jurt þessi vex á *Ceylon* og fleirum hinna indversku eyja. Þar er mikill hiti, eins og allir vita, og koma könnurnar sjer þá opt vel fyrir göngumóða ferðamenn.

## 5. Dálítið reikningsdæmi.

Þegar jeg skipti næpu, eða hverjum hlut sem er, í tvo jafna hluti, þá er hvor partur kallaður helmingur hlutarins, og er það þannig ritað með tölum $^1/_2$. Ef helmingnum er þá aptur skipt í tvo jafna hluti, þá er hvor þeirra fjórðungur hlutarins alls ($^1/_4$). Þannig táknar A í myndinni helming hennar, *B* fjórðung. Hvað táknar þá *C*, *D*, *E*, *F*, *G*, *H*, *I*, *K*? Hvað eru margir fjórðungar í helmingi? áttungar í fjórðung? — sextándupartar í áttung? í fjórðung? í helming? Hvað eru margir sextándupartar í *C* og *D* saman? — Hvernig á að lesa úr þessum tölum:

$^3/_4$, $^2/_3$, $^7/_8$, $^5/_6$?

## 6. Annað reikningsdæmi.

Kringlótta myndin, sem hjer er, er kölluð **hringur**; yzta jaðar hringsins kalla menn **umgjörð** hans; depillinn *C* í miðjum hringnum heitir **miðdepill** hans; öll stryk, sem dregin eru frá miðdepli hrings beint út að umgjörð hans, eru jafn-löng, og heita þau **geislar** hringsins; t. a. m. strykin *EC*, *AC*, *DC* og *CB*. Ef beint stryk er dregið frá umgjörð hringsins í gegn um miðdepil og að umgjörðinni hinumegin, þá kalla menn það **þverlínu** hringsins, t. a. m. *AB* og *DE*. Þverlínan er því jafnan helmingi lengri en geislinn. — Ef að nú helmingur geislans væri 4 fet, hvað væri þá þverlínan löng? — Ef þverlínan væri 64 fet, hvað væri þá geislinn langur? hvað væri þá 1/4, 1/8, 3/4, 5/8, 9/16 geislans langur?

## 7. *Lama*-dýrið.

Ef að þú hefðir lesið söguna af *Robinson*, þá þyrfti jeg ekki að lýsa fyrir þjer *lama*-dýrinu; jeg ætla líka að eins að geta þess, að það á heima í suðurhluta Vesturálfu, einkum í *Peru* og *Chili*, og hafast þau þar við í stórflokkum á hinum háu fjöllum, er heita *Kordiller*. *Lama*-dýrið er 5 eða 6 fet að lengd; það er kátt og fjörugt, og hoppar hvatlega til og frá um klettana. það er auðtamid, og er þá haft til áburðar. það getur gengið upp bröttustu fjöll með 6 eða 7 fjórðunga klyfjar; mjög hægt er að ráða við það, ef ekki er lagt of þungt á það, en ef að það er gjört, fleygir það sjer niður, og er þá ekki unnt að þoka því eitt fótmál framar, hvernig sem að er farið.

## 8. Tapírinn.

Hvernig lízt þjer á skepnuna, sem þú sjer á myndinni þeirri arna? Hún heitir tapír. Dýr þetta er á stærð við lítinn asna, en að öðru leyti er það mjög líkt svíni, bæði í vexti, limaburði og göngulagi, nema hvað það er miklu fljótara á fæti. Tapírinn hefur fjórar klær á framfótunum og þrjár á apturfótunum. Hann er mórauður að lit, mjög gishærður og stríhærður; hálsdigur er hann og hefur fax; trýnið er líkt svínstrýni, nema nokkru lengra. Tapírinn á heima í skógunum við árnar í suðurhluta Vesturálfu. Hann er mjög hneigður fyrir að fara í bað, og syndir ágætlega vel. Hann lifir á jurtum. Tapírakjöt er líkt nautakjöti.

## 9. *Zebra*-dýrið.

það er auðsjeð fyrir hvern mann, að þetta dýr er töluvert líkt asnanum, er þú getur sjeð á elleftu myndinni í myndabókinni I. það er á stærð við asna, en allt sköpulag þess er miklu fallegra. það er með einlægum hvítum og svörtum þverröndum. það vantar á, að *zebra*-dýrið sje eins þarflegt og asninn: það er ólmt og óviðráðanlegt, og verður ekki tamið. það á heima í suðurhluta Suðurálfunnar. það er mjög fljótt á fæti. það slæst opt í för með strútinum, sem þú getur sjeð á 16. myndinni í myndabókinni I., og sjá menn opt stóra flokka af hvorumtveggja saman, og þykir mönnum mikið gaman að sjá allan hópinn reyna sig að hlaupa.

## 10. Refurinn og öndin.

---

Refurinn: „Heyrðu mjer, öndin mín góð! mig hefur lengi langað til að tala nokkuð við þig. Komdu nær landinu fyrir mig.“

Öndin: „Já, já, tóa mín góð. Hvað viltu mjer? Jeg held þú verðir að afsaka mig í þetta sinn; því jeg þarf að flýta mjer. Jeg þekki þig og; þú ert ekki allur þar sem þú ert sjeður, refur minn.“

Hvað heldurðu að tóa hafi ætlað að tala við öndina, ef hún hefði viljað koma til hennar? það er nú svo sem auðvitað, og það grunaði öndina; þess vegna synti hún og burt frá landinu eins og myndin sýnir.

## 11. Náttuglan í dagsbirtunni.

---

Fuglarnir: „Heil og sæl, náttugla, ertú hjerna? ertu orðin vitlaus, veiztu ekki það er albjartur dagur? því ertu svo hljóð og döpur í bragði, eins og eitthvað gangi að þjer?“

Náttuglan: „Ef að sólskinið væri ekki svona bjart, skyldi jeg reyna að gegna ykkur öllum.“

Hinir fuglarnir skemmtu sjer, en uglan sat þegjandi, og var auðsjeð, að hún var ekki með sjálfri sjer. „því siturðu þarna með þessum ólundarsvip?“ sagði einn fuglinn, um leið og hann flaug fram hjá. „það skal jeg segja þjer í kvöld, góðurinn minn, þegar dimmt er orðið,“ svaraði uglan, og var mjög rám.

## 12. Blindi maðurinn.

---

Hjer er mynd af blindum manni fátækum, sem situr á almannafæri og beiðist ölmusu. Sjálfur sjer hann ekki þá, sem hjá ganga, en hundurinn hans bætir mikið úr því. Hann situr jafnan við hlið hins blinda manns, og heldur á íláti, sem hann rjettir að hverjum manni, sem hjá fer, til þess að leggja þar í gjöf sína.

## 13. Hreindýrið.

Hreindýrið heyrir undir hjartaættina. Ekki er það fallegt í vexti; það er hálsstutt og hefur eins konar fax, en neðan undir hálsinum er fituklett, sem hangir niður. Á herðakambinum er og fituhnúður. Fæturnir eru fremur stuttir og hófarnir stórir og breiðir. Horn hefur það mikil og marggreinótt. Hreindýrið á heima í norðurhluta Norður- Austur- og Vesturálfunnar, og eru þau bæði tamin og ótamin púsundum saman. Í þessum köldu löndum eru hreindýrin notuð nærri því á alla vega, þau eru sumstaðar sá eini búfjenaður. Kjöt þeirra er smekkgott, og mjólkin kostgóð. Hreindýrið er mjög fljótt á fæti. Uppáhaldsfæða þess eru fjallagrös og hreindýramosi.

## 14. Elgsdýrið.

Þetta er stærsta dýrið af öllum þeim, sem eiga skylt við hjartaættina. Það er hálfrar fjórðu til fjögra álna hátt og þriggja álna langt. Sagt er, að fullorðið elgsdýr vegi 9 eða 10 vættir. Það á heima í flestöllum hinum sömu löndum og hreindýrið, nema þeim nyrðstu. Það er fjarskalega fljótt á fæti, og segja menn, að það geti hlaupið 10 þingmannaleiðir á einum degi. Það verður ekki tamið eins og hreindýrið. Skinn þess og kjöt er uppáhaldsvara. Elgsdýrið er huglaust og fælist menn, þó ber það við, að það ræðst á þann, sem eltir það, þegar það getur ekki forðað sjer á annan hátt.

## 15. Barnið og litla kisa.

---

„Þarna ertu þá búin að klóra mig aptur, óhræsið þitt, það er til nokkurs að láta sjer þykja vænt um þig, eða veiztu ekki, að jeg er að leika mjer að þjer? Þú ert lítil eins og jeg, og þá á það bezt við, að okkur komi vel saman.“ „Þú segir satt,“ svaraði kisa, „en þú mátt ekki fara of illa með mig. Þú verður að gá að, hvað jeg er ung og lítil, jeg er ekki fær fyrir miklu, þess vegna verð jeg að hefna mín og klóra þig dálítið, en jeg skal samt vera fljót til sátta, og hvergi vera eins opt eins og hjá þjer.“

## 16. Vanangur.

Vanangur er lítil höll, fögur, er liggur liðuga hálfa aðra mílu frá Kaupmannahöfn. Umhverfis um höllina er þjettvaxinn skógur, og stöðuvatn skammt frá; öðrumegin við höllina er stór og fagur garður og lystiskógur, og eru grafin síki gegnum hann, og eru þar margir fagrir skemmtistaðir, og er hverjum manni, sem um fer, heimilt að fara þar inn. Vanangur er einn af uppáhaldsstöðum Kaupmannahafnarbúa, og er allt sumarið mjög mannkvæmt í skóginum kring um höllina og svo í garðinum. Enn fjölsóttari var þessi staður, þegar að Kristján 8. sat að ríkjum, því hann var vanur að hafa þar sumarbústað, hafði hann og verið vanur að dvelja þar mestan hluta sumarsins löngu áður en hann varð konungur; hjelt hann og opt fæðingarhátíð sína í þessari inndælu höll, og hefur í hans minningu opt síðan verið haldin þar hátíð.

## 17. Húsið í Gæsagötunni.

Þetta er mynd af húsi einu í Kaupmannahöfn, mjög gömlu, er staðið hefur til skamms tíma, en nú er búið að rífa, og byggja aptur miklu stærra og fallegra. Það er sögn manna, að þetta hús hafi eitt orðið eptir óbrunnið árið 1728, þegar hinn ógurlegi eldsvoði eyddi öllum húsum í grennd við það. Það bar þannig að: þegar eldurinn fór að færast í nánd við húsið, fór hússeigandinn, er var kaupmaður nokkur mjög ráðvandur, út á götuna með kvarðann sinn og vogina, og bað guð að láta allar eigur sínar brenna til ösku, ef hann hefði nokkurn tíma sýnt óráðvendni í viðskiptum við aðra; en ef að hann þar á móti væri ráðvandur maður bað hann guð að hlífa eigum sínum. Eptir það sneiddi eldurinn hjá húsinu, og það stóð óskemmt.

## 18. Hjörturinn og hundarnir.

---

Hjörturinn: „Þið eruð ósvífnir að elta mig svona, þangað til jeg er kominn í opinn dauðann; hvenær hef jeg móðgað ykkur? jeg á eins mikkinn rjett á að lifa eins og þið, því guð hefur skapað mig eins og ykkur.“

Hundarnir: „Við verðum að gjöra það, hann hússbóndi okkar hefur skipað okkur það; við megum ekki spyrja að, hvað þú hafir unnið til, við verðum að hlýða, og fara, þegar okkur er skipað. En ef þú vilt koma heim með okkur, þá færðu grið og fullt frelsi, og þarft ekki að bera áhyggju fyrir uppheldi þínu; auk þess færðu gott rúm og nóg að sofa.“

Hjörturinn: „Jeg þakka fyrir gott boð — en jeg sel ekki frelsi mitt, til þess að verða settur í varðhald og þrældóm í staðinn, jeg hef lifað við sæmdir allt til þessa, og ekki verið öðrum háður. Drepið mig, en látið mig ekki kveljast lengi.“

## 19. Drengurinn og dúfurnar.

Drengurinn: „Ógn eigið þið gott, dúfur, að geta flogið, þegar þið nennið ekki lengur að ganga, það gengur yfir mig, að þið skulið sitja kyrrar; ef jeg gæti flogið skyldi jeg aldrei setjast niður, jeg skyldi allt af vera að fljúga til og frá í loptinu, eins og þegar jeg er að ríða leggnum mínum til og frá um hlaðið.“

Dúfurnar: „Maður hugsar ekki um annað en leika sjer, meðan maður er ungur, en það fer af með aldrinum. Við eigum tvo unga hjerna í nánd, sem okkur þykir mjög vænt um, og viljum ekki fara frá; þegar við erum hjerna, getum við bakað okkur í sólskininu, og gáð að þeim um leið; það fer vel um okkur, og við eigum skammt heim.“

## 20. Drengurinn og lævirkinn.

---

„Ljúktu upp búrinu mínu, góðurinn minn, mjer leiðist svo að vera inni, mjer líða aldrei úr minni vellirnir grænu og vorblærinn. Foreldrarnir mínir geta nú ekki lengur sungið fyrir harmi yfir því, að missa mig, þeir hafa opt skemmt þjer, viltu þá ekki leitast við að hugga þá. Jeg skal jafnan muna eptir þjer, ef þú hleypir mjer út, jeg skal syngja um þig, og þú skalt jafnan heyra söng minn.“ Drengurinn lauk upp búrinu með tárin í augunum: „Fljúgðu, litli fugl, hvert sem þú vilt, og berðu fram bænir mínar fyrir guð á himnum.“

## 21. Antílópinn.

Er ekki dýrið að tarna fallegt? það er hábeinótt, grannvaxið og ber sig vel, og allt bendir til þess, að það sje fljótt á fæti. það heitir antílópi. Hann er á stærð við hreindýr; hann er rauðgulur á bakinu, en hvítur á kviðnum, hornin eru sívöl, dálítið bogin á bak aptur, og hjer um bil 10 þumlunga löng. Antílóparnir eiga heima í suðurhluta Suðurálfu, á Sýrlandi og í Persíu og fleirum heitum löndum, og er til afarmikill grúi af þeim. Hægt er að temja þá, þegar þeir eru veiddir ungir, annars eru þeir mjög styggir. Skinn þeirra og kjöt eru mikils virði. Ljóni og öðrum óarga dýrum þykir kjöt þeirra mikið sælgæti, og drepa þau marga þeirra.

## 22. Steingeitin.

Það er auðsjeð á hökuskegginu og hornunum á þessu dýri, að það á skylt við tamda geitfjeð, þó er steingeitin stærri, og geta þær jafnvel orðið svo stórar, að þær vega hálfa þriðju vætt. Hornin á steingeitahöfrunum eru stundum meir en alin að lengd. Steingeiturnar eiga heima á háum fjöllum eins og gemsinn, einkum í *Schweiz*; ekki er mikill fjöldi til af þeim. Steingeitin er þunglamalegri að sjá en gemsinn, en getur samt jafnazt við hann að hlaupa og stökkva. Þær hafast einungis við uppi á hæstu og bröttustu fjöllum, og eru mjög áræðnar að stökkva ofan af háum klettum; það er jafnvel mælt, að þær stundum steypi sjer á hornunum ofan af mikilli hæð. Þær eru hugaðar vel, og hika ekki við að ráðast á þann, sem eltir þær, þegar þær geta ekki komizt undan á annan hátt.

## 23. Knútskirkja í Oðinsve.

---

Kirkja þessi er einhver hin merkilegasta í Danmörku, þó hún sje ekki eins stór og skrautmikil eins og dómkirkjan í Hróarskeldu, sem sýnd er á 19. myndinni í myndabókinni I. Kirkja þessi er kennd við Knút hinn helga, Danmerkur konung, er var drepinn í kirkju *Albanus* hins helga í Óðinsve árið 1086; tók páfinn Knút seinna í tölu helgra manna. Sagt er, að kirkjan hafi verið vígð árið 1093. Hún er að innanverðu 100 álnir á lengd og 36 álnir á breidd; kórinn er að utanverðu 30 álnir á lengd; hvorumegin í kirkjunni eru 10 stoðir. Hún er björt innan, rúmgóð og tignarleg, og eru þar jarðaðir margir nafntogaðir menn, t. a. m. Knútur helgi og einn af bræðrum hans, Hans Danakonungur, Kristján 2. og Kristín, drottning hans, auk fleiri annara.



## 24. Háskólinn í Kaupmannahöfn.

þarna sjerðu hús, það er raunar ekki gamalt, en Kaupmannahafnar háskóli á þar aðsetur, og er hann nærri 400 ára gamall. Viltu vita hvað þú þarft að vinna til að komast á hann? Fyrst

þarftu að vera viljugur að læra að lesa og að læra fræðin þín og kverið þitt; ef þú gjörir það fer faðir þinn að kenna þjer útlend mál, svo þú getur skilið útlendar bækur, sem eru eins fallegar og sögurnar, svo sendir hann þig í skóla, og þar lærir þú nú mart og mikið, þar verður þú að haga þjer svo, að þú eigir góðan vitnisburð skilið, því annars þorir faðir þinn ekki að sleppa þjer frá sjer, en ef þú ert vænn drengur sendir hann þig á háskólann; þar lærir þú fyrst vísindi þau, sem eru kölluð heimsspeki, en síðan verður þú að kjósa það, sem þú ert bezt laginn til, því mart er um að velja. Ef þú ert vel laginn til að prjedika, og að kenna börnum kverið sitt, stundar þú guðfræði. Ef þjer geðjast vel að landsstjórn stundar þú lögfræði. Ef þjer þykir skemmtilegt að taka eptir veikindum manna og bæta úr þeim, lestu læknisfræði; ef þú vilt skilja öfl náttúrunnar og gang himintunglanna stundar þú náttúrufræði. En þó þú hafir notað háskólakennsluna sem bezt verður, hlýtur þú samt alla æfi þína að stunda það, sem þú hefur lært, ef þú vilt vinna nokkurt gagn með lærdómi þínum.

## 25. Sívali turn í Kaupmannahöfn.

þarna sjerðu mynd af turni einum í Kaupmannahöfn, sem er sívalur, eins og nafnið ber með sjer; hann var byggður á 17. öld. Hann er ólíkur öðrum húsum að innanverðu; því þegar maður kemur inn um dyrnar, sjer maður stöpul í miðjum turninum, sem stendur niðri á jörðu, og haldi maður nú áfram, fer vegurinn að verða brattur, og liggur hann nú í einlægum hringum í kringum stöpulinn, eins og skrúfur á skrúfnagla; ekki er leiðin brattari en svo, að maður getur hæglega hlaupið; skemmstur er vegurinn, ef maður fer nálægt stöplinum, en lengstur, ef maður þræðir fram með gluggunum, en þar er ekki eins bratt. Allt er þetta hlaðið úr steini. Uppi á turninum stendur dálítið hús með stöng upp úr, eins og þú sjer, en úti á brúnunum allt í kring eru sterkar járngrindur, svo ekki sje hætt við, að maður steypi sjer ofan fyrir. Í húsinu eru geymd verkfæri þau, er notuð eru við stjörnuskoðanir, eru þau mörg og fásjeð. Þú sjer blæju hanga á stönginni, henni er brugðið upp um hádegisbilið tvo daga í viku, og kippt niður einmitt í því bili, að klukkan á að vera 12; eru svo klukkur bæjarins settar eptir því.

## 26. Olgeir danski.

Þarna sjerðu herklæddan mann ríðandi, með sverð í hægri hendi og skjöld á vinstri handlegg, eins og hann ætli að leggja til orustu; hann heitir Olgeir, og er kallaður Olgeir danski, því hann var danskur að ætt. Hann lifði á sama tíma og Karlamagnús. Um hann eru miklar sögur, sem nærri má geta, því hann vann mörg afreksverk, og var talinn öllum mönnum hraustari, þeim er þá voru uppi. Hann var bjargvættur þjóðar sinnar, og nafn hans eitt var nóg til að skelfa óvini hans; því svo fóru miklar sögur af kallmennsku hans, að enginn treystist við hann að eiga.

## 27. *Till·Uglspil.*

Þessi hlæilega mynd er af einhverjum hinum mesta bragðaref, sem til hefur verið. Faðir hans hjet Kláus, en móðirin Anna. Hann var fæddur í *Knetlingen*, þorpi nokkru á Saxlandi. Um þenna *Till Uglspil* eru margar skrítnar sögur. Hann ljek helzt á ríkismenn og höfðingja, en beitti glettum sínum sjaldan neinum til tjóns, nema þeim, sem mikið var búinn að erta hann, eða áreita. Ef jeg get, skal jeg með tímanum segja þjer hitt og þetta af brögðum hans, en að svo stöddu get jeg það ekki; því þessi bók er nú þegar á enda, og jeg ætla fyrst að vita, hvert nokkur vill eiga hana.

## 28. Jólatrjeð.

Myndin, sem þú sjer þarna, á að sýna grein af grenitrje; hún er reist upp inni í herbergi og tilsýndar eins og dálítil eik, fagurgræn, því grenitrjeð heldur sjer sígrænt og fölnar eigi á vetrum. Þú verður að ímynda þjer, að það sje jólanótt, og þú sjáir lokið upp herbergi, þar sem jólatrjeð er inni; þá sjerðu limið sett með smákertum, sem nýbúið er að kveikja á; á milli kertanna hanga niður úr smágreinum jólatrjesins margar fagrar gersemar; það eru jólagjafir, sem ætlaðar eru góðu börnunum til endurgjalds fyrir það, að þau hafa verið hlýðin foreldrum sínum og námfús. Nú er farið að úthluta börnunum því, sem hvert þeirra á að fá, og er ekki lítill fögnuður þeirra, er þau hlaupa burt með gjafirnar, sem þau skemmta sjer við langt fram yfir miðnætti, og gleðja sig yfir því, að hafa verið góð börn; því engin nema góðu börnin fá slíkar jólagjafir.

## 29. Tilhliðrunarsemi Abrahams.

---

Abraham var ættfaðir Gyðinga; hann lifði af hjörð sinni. Einu sinni var hann í tvíbýli við Lot, og með því þeir höfðu báðir ærinn kviktjenað, þá kom ágreiningur upp milli smalanna út úr högunum, eða beitarlandinu. Undir eins og Abraham varð þessa var, vildi hann hliðra til við Lot, jafnvel þó hann ætti alls kostar við hann. Hann tekur því Lot tali og segir: „Við erum svo náskyldir, að okkur sæmir ekki að deila, og skulum heldur skilja sambýlið. Veldu um landið, og taktu það, sem þjer þykir bezt.“ Lot notaði sjer boðið, og valdi það bezta úr landinu handa sjer. Eigi að síður fyrrtist Abraham ekki við hann, heldur var honum þá hjálplegur, er hann þurfti þess við seinna.

## 30. Elíeser og Rebekka.

Elíeser, hinn dyggi þjónn Abrahams, fór til lands þess, er ættfólk Abrahams bjó í, til þess að velja konu handa Ísak, syni húsbónda síns. Elíeser var ókunnugur í því landi, enn hann treysti guði, og þegar hann því kom þangað, sem ættfólk Abrahams bjó, nam hann staðar við brunn einn, og bað guð að haga því svo, að sú stúlka, er fyrst gæfi honum að drekka, þegar hann bæði um það, væri sú, sem væri ætluð syni húsbónda síns fyrir konu. En er hann hafði lokið bæn sinni, kom Rebekka, frændstúlka Abrahams, að brunninum, og gaf hinum dygga þjóni ljúflega svaladrykk. Elíeser virtist þetta vera tákn guðs, bað Rebekku handa syni húsbónda síns, og fór heim með hana til Ísaks, og lifðu þau síðan farsællega saman í mörg ár.

